# Riimur

af

# Sigurde Snarfara

kvednar

af

Sira

## Snorra Biørnssyne

Preste fyrst á Stad í Adalvík

og

sídan á Húsafelle.

---

Þriktar á Hrappsey af G. Olafssyne
1779.

# I. Rima.

Fiølners Rióma eg renna læt, um Røgners Sil í Bodnar Strock, Bullann Fryggar Birlar mæt, Berlings Smiør fyrer Suptungs Rock.

Oma skal so áum af, øll fá drecka Þióðinn tvist, enn af því eg þetta gaf, þigge hvor sem hefur Lyst.

Svaladu þier nú sveitenn fín, af soddann dáda helgum Løg, því ecke er þetta ódreirs Vín, sem ønnur Skáldenn tigna miøg.

Fialars vøkrum stravma stelk, styre eg ecke sóns um Haf, hin mer giøra skálden skielk, so skiped Møndulø ser í kaf.

Lángt vill heldur lúdra hann, lande nær þar skygger á, úr fræda grunne fiølners kann, fliótara biarga avstre þá.

Skálda elfu Skiøldung þig, skiæra rødulø hlyra bid, avmkadu þig yfer mig, því akurenn mærdar þarf þeß vid.

Skignst hefe eg opt þar ad, upptøk hvar seu krapta þín, ofar þer þó ætle eg þad, enn samt meiga ná til mín.

So hefur spiltann froste frekt, fár-
lega

leg̃a mı́num Næmes-vøll, med óminnes Avrnum blekt, iggar vex ei Tadann sniøll.
Láttu módu mána greitt, mitt so hreinsa sagnar land, óms þad giæte Arfann veitt og Eltíngena med i bland.
Þó fergin þad ei fære í met, situ og hold i þetta sinn, þad er valed víst eg g̃iet, vitgrønn fyrer Gieldskripinn.
Mig furdar Svidrir sende mer, Súdra sley til útgiørdar, enn lætur hiá þó heima ser, Herians Fugla blifa þar.
Ecke er soddann ødrum giørt, ó-miskun eg fyrer vard, ad ei feinge an-nadhvørt, í tie láted hanns úr gard.
Samt þó soddan ravna rig, vata hlióte sid og ár, hugga þar vid má eg mig, margur baslar efna sinár.
Af fornaldar frægre þiód, fyrer-skrifad Efenntyr, eingenn nentu lesa i liód, listar Skáldenn menta dyr.
Sudre í hlióde sagde mer, samtal Herians málvina, efne þad er ætlad þer, ords þó vante snildina.
Af Einheriunn þessum þú, og þeirra stórum frægdar hag, Ome bavd þer yrkia nú, allrabest sem kanntu brag.
Hlídninn flestum hótum er, hollare þad vitnar hann, sem átte margann unnder ser, ófyrerleitinn hverlyndann.
Ef þú Sudre lid til liær, liet eg

segia

segja vid hann þá, og mer øll þín favng til fær, fer eg ad lita Søguna á.

Þannenn hennar er upphaf, epter því sem kiemz eg ad, ykiur hvorke eda skraf, efned reiniz sannprófad.

Eirn Magiætur Hilmer het, Hialdur Travske fyrra tíd, mót Herkongum legga let, lángskipunum spióts í hríd.

Nors af Ættum Sikling sá, sómaþakenn, Vikkingum, af bar sigur og í strá, alla sló á Välþingum.

Vatnar Gramur Vikarsson, var hiñ miklablade senn, hørkn ramur hárs á qvon, Hara kiendur Faderenn.

Vatnar Møgur annann eñ, átti ser og skilfengenn, frægdar vafde Fylkerenn, í forstiórn Rikes innrekenn.

Snialluf heiter Siole sá, sigur stirer brandanna, ríkes veiter rádenn há, Roga og Horda Landanna.

Agder, Mære og Upplond med, einnenn Pilum stiórnande, ósamfæres olla red, avngvu Hialldre midlande.

Unde heima ecke því, utá Skipum

 Hialdr

Hialdur lá, órustunum optast í, ei vill Sniall þó heria á.

Otursgialda biortum bíng, bísnum safna kunne hann, Nordurløndenn klár um kríng, Kraka ríked sækia vann.

Af rínarfuna æred or, allra vinsæld náde þá, færde dreingum dofra svor, diálióma eyder sá.

J forntíma Fylker var, frægstur metinn Herkónga, og mót honum eingenn þar, etia þorde Skiolldúnga.

J Noreg vídum Fridland fann, Fiolners þaktur kirtla glans, af Karfa hlídum hafde hann, heil 30. Skip til Lands.

Hæleyinga hofnum nær, Hesta slodvar Marvadar, elris hunds þá grædge græer, og gnír Havstvidra adstediar.

Hæleyiar þá hafde i lien, Hersser metenn Eldgrane, Skatt ei tafde gialda ígien, Gram sem nefndist Hæloge.

Hersser Grane hravstur í, hafde tamiz Bardogum, einnenn vanez vaskur því, ad vera i Sverda atløgum.

Nírum ecke Níkdóm sá, rakade samann orku hreß, døgunum sinnar æsku á, ellenn mátte nióta þeß. Hrañ-

Hrannar sunnu fríđust Fold, Forstiórn milda **Eldgrana**, hylia kunne hel og Mold, her viđ skilde andvana.

Atte Dóttur eina ser, ægers funa veiter skír, glansa gnóttar bár sem ber, Bríkenn **Una** heiter dýr.

Eingenn fegre fannst þá Snót, fægđ međ skrúđ um **Noregs** reit, ne ástúđlegre yndes bót, ørva þollum nockur leit.

Herser sem nú heyrde og sá, **Hialdur** lendtann Bænum nær, međ ogrinnes Herskip há, Hafna til hann geingeđ fær.

Heilsan blíđa Lofđung liós, Landsins veitte Fiorstióra; Vetrar setu vel og kios, Veđrum olla Havstórar.

Þackar Jøfur **Grana** greitt, gistíng bodna, so nam tiá: øllum fær oß vist ei veitt, Veturinn međann strídeꝛ á.

Ei er Bónda einum hent, 8. hundruđ fæđa manns, þó ríkdóms hafe makt og ment, Mildíng gaf hanns Svare anns:

Međ 300. manna þer, Mildíng bíđ í þennann Sal, á Búum mínum hiner her, Holdar kióse retta val.

Þvílíkt heidurs hefdar bod, Hilmer eingenn badd oß fyr, og þvílíka óſka ſtod, anſar Gramur tals med hýr.

Riklundadur riett munt þú, rád og efne hefur ſenn, ef vel þettad endar nú, epter ſem þorf krefur menn.

Þá veit mann ad þad er reint; þinn mátt færa brendann ſeim, af Ilgium hrannar ecke ſeint, upp frá Sió og til vor heim.

Med Herenn allann Víſer var, um Veturinn hiá **Elldgrana**, virdíng ſniallre þakenn þar, þeirra epter Landsvana.

Vindſvals eingen kífe qveid, kiætte Bóndinn þegna krans, allt ad Jólum af ſo leid; Odlíng hrepte glede ſtans.

**Grane** ſpurde Gram þar ad, giæten nog um ſinnudal, hvad gledinnar ſtifle ſtad, Stióre Hers þad birtu Hal?

Eda þiker ecke þier, eftt ſem ſkylde Loford mitt, ad meira Víſer vid þurfer, og vanid Hilde Fólked þitt?

Velur **Hialdur** honum ſvar: hvorskyns ſæld oß veiteſt nú, ſo ávantar ecke par, enn fyrſt þeſſa leitar þú.

Oſ=

Ofſkyldaſtur ertu til, úr ad leiſa ſtúrlan manns, og vorn kiæta hugar hyl, þægaſt mun og þier til ſanns.

Eg hier ſæ þá eina ſed, eyu lióſa Fiardarbáls, er mitt þæge girnaz ged, giøre ad kióſa Lindesfriáls.

Slíku Lióma giefnenn ſín, girndar hótenn qveiker mer, dýr med sóma Dótter þín, dávæn Snótinn Una her.

Drakons ſala ſeliann ſín, ſe mer gefenn ſtrax af þer, koſen ſkal ſú Kona mín, kiærnſt medann endeſt ſier;

Haaleyinga Hyrdſtióre, hradſt-ur ſparar þad til anns, gæter hrkiga gedſtóre, giørde ſvara ulle brands:

Dóttur eina mun eg mín, manne gipta þeim ſiálfann, þad nú greine Þor-nalín, þig ef kís edur hvorn annann.

Eg hugde ad giefa Mildíng Mey, ſem magt og ſtiórnan Ríkes ber, eun Herkónge einum ei, þó avdur og frame ſylge þier.

Enn fyrſt ad eingenn frægri eñ þú, finnſt ad heyrn um Noregs láð, Bón er feingen Siólaſú, ſeliann hrings med kraka ſád.

Þar á mót eg þad kýs heit, þier til handa vinner Rann, af **Sniall** Kónge sem eg veit, siálfum þer miøg nástyldann.

Og mer sender Systur hañs, sem nú tærer Jotna róm, **Gerdur** kend er glíu glañs, gøfug, orlát, dygg, og fróm.

Vakte eg Bónord snøggt vid **Sniall**, Sniotar til af ástar mó, eg honum þótte ofgamall, elskade míg Ovendid þó.

Keipt skal þessu **Hialldur** hiet, honum færa Silkelád, þó kialars vessa hvessi hret, henne nær sem fenge nád.

Elfu sólar gladdez grer, gipt var **Una** Hilmir kiær, Linnabóla Hlockenn her, **Hialldurs** míktez ravna blær.

Veislann besta frañ þar fór, formenn olvaz stavpenn vid, graner hreste horna siór, hradt so endte Brúdkavped.

Ridu gláddir sæmdir Seim, soped sikla flóded var, giøfum saddir, gørpum tveim, guldu miklar þackernar.

Unnuz Hiónenn; Siklíng sá, sat um kyrt i nefndum stad, Thu Priónа úngre hiá, unde so sem von var ad.

Hræ=

Hræſvelgs ſiadra. Þrítur þravt, þar með vindſvals ſlitte dvel, **Hialdur** býſt að halda á bravt, hríngbyrníngar væta kiol.

Albúenn með Herlið Hravſt, hratt fram̃ ſielkum ránganna, þúſund fylgde Tiggia travſt, á teiga fogru þángana.

Um **Ravmelve** til **Rogalands**, roſtu Heſtar ſtravma dals, meður Gram og bríóta brands, búnum til að abla Vals.

Ei var **Sniallur** heima í Holl, Her því krafde járn með blá, Fylker burt um Flíðruvoll, farinn var í ſtyrjar þrá.

**Hialdur** ſtaldrar hót ei við, horfinn allre ſorgar pín, Víkínga að vaña ſið, volduga burttok Hríngalín.

**Gerde** ſkríóða ríſa róms, Ræſer ſende máge ſín, glanſa prídda dofra dóms, dángaz karle gleðinn ſín.

Híra hafde hann í Sæng, hyrdte ei meir um giptumál, ſíðann vafde ſer í fæng; ſavng ei neitt fyrer Hióna Skál.

A hofrúngs beckium **Hialdur** ſenn, humlungs reirer ſtiórnarband, viður recka æſer enn, ørvahríðar voða grand.

Um

Um Orkneyia og Hialltlands Haf, hermannlega lavsann skok, slædar loga dŷrast drak, drepnum lídum af so tók.

Sniallur heima hvad til bar, hóskur spyria náde skiótt, ad Eykinn seima áburt var, ei giordiz í Hiarta rótt.

Hugde lægia Hafre med, Hialdurs slíkann óvana, Dogling frægañ dyrsez ged, drepa og líka Elldgrana.

Orvar lætur brádast bod, beraz þar á hendur tvær, í darra þrætur vidris vod, vefur Jofur sveiter þær.

Hvolpar ránga hravstan Her, hofdu ad liónum karsa ranns, grafnings hulenn grióte er, geisande i hríder brands.

Klæddur járne Lofdúng líds, líste stríar orsokum, útbúenn til Asafrids, vid Elldgrana i Hatleyium.

Lande fús so lagdez frá, lægis jórum rásande, vargur húsa hrinur þá, hart á epter blásande.

Ovart þravt þañ ókka bir, andvitred á móte bles, vera hlavt þvi Hilmer kir, hafner geimdu Faka hles.

Lagar

Lagar gins í lodre storms, lúrdu
í kyrdum hamdeiger, sidred serhvors
olldu orms, ýfdez meir enn frá seiger.

Lægis jálka Losdúngs þá, látum
hhra alvota, til **Hialdurs** vikia mále
má, menn sem giorde líf þrota.

Heim vill brátt úr sverda són,
sigla og lægia randaklid, þægum huleñ
þiassa tón, þá tók lída Sumarid.

Ofugt drafnar Hestum hañs, harka
ed miallar bægde þar, inn á hafnar leid
til lands, er Losdúng **Sniallur** fyrer
var.

Kiættiz gamla Kierlíng **Hel**, Kónga
fund fyrst saman ber, þeinkte ad rættiz
randa jel, reis úr Kør til Nára fer.

Fórn í skape slærdum med, frietta
slæg þad seigia menn, Valheims kyr-
iur vígs med ved, og Vanadís sig
gledie enn.

Ergis glíngurs fánga fliót, ferda
um þángad hrada vann, sem Siklíng-
um mælt er mót, móde þrúnginn nás
struckann.

Fæster kunna Forlog her, skha
líder vedra hríngs, enn neyd er þad ef
nástkylder, niótar strída dreka bíngs.

Hof-

Hofnum nú sem hittuz á, hard-
lindaster Jofrar þeir, ad iokum fretta
þurfte ei þá, þyrster í rómu báder tveir.

Enn sem **Hialdur** Hilmers sá,
herbúenn í Sverdadans, orvabaldur tók
ad tiá, talade á þessa leid til hanns:

Vid avngvann saker utann mig,
áttu **Sniallur** Köngur her, þvi slavngu
jaka strandar stigs, stolta tók eg burt
frá þer.

Af þínum eingen heldur her,
hefur giort oß nockud til, utan þú
þad orsok er, eignaz þitt eg ríke vil.

Því er rett vid Ræserar, reinum
ockar sverdinn blá; enn siónar Kleitar
seggia þar, sanne hvor ad betur má.

Mælt var jafner mundum vid, miog
ósciner Valþíng á, þær athafner kifs
vid klid, kunnum reyna nú sem má.

Mildíng ríkur menter kañ, mælte
so á þessa leid: bodenu slíku eg vel añ,
Einvígs stofnez ríñann greid.

Eige Lond og lángskip her, lýd
og Borger Gilve sá, frídann mund og
faaran Her, frægre á torg sem verda
má.

Hafe.

Hafe lȳder fullann frid, Foríngia ad greptra sinn, hvorn sem hugur velle vid, vor skulu þesse Strídsloginn.

Fullhugarner festu nú, fleina brídar grádid skiótt, lista giarner á Fiölners frú, fóru ad sota þessa nótt.

Þegar riódur rødull skiær, rindar elju lióma fann, hver Vopn teked Frænda fær, Følners bediu uppá rann.

Hvestu vedred þundar þeir, þungann báru grimdarslag, aldrei skedur ann ad meir, offalegra geira jag.

Ur ymsum mundum baleigs bál, blódugt ódum hildar dúk, stingrar stundum Sverd vid stál, Snótinn iggiar ravk sem snúk.

Eingenn fyrre soddan sá, sókn í navda atførum, þvi loginn ravda lagdi frá, lisiar kappa eggsporum.

Hiarta prúder óma eld, idia letu brinnur flá, blodsins ravda seiran seld, sár heit dunde nidur um þá.

Mædinn lúde beggia brióst, bæskng geisar hardur opt, reiden knúde þúng med þvost, þuste gusann reiks i lopt.

Af beggia vitum blásturinn vex, bilade sorla vodernar, þvi seggia ofur hegginn breggs, hlífar risu giorvallar.

Mátte sanna méinged teitt, mættuz kiempur oflugar, sparade annann eige neitt, eisu grímuers fullhugar.

Þá biortum stiórnum þundar þar, þrísu samann á Munnunum, alt ad siá í eide var, umhversis af geistunum.

Þá jotuns stietta tonginn tom, lista bálid geipla kann, rispast þietta randa þrom, rodaserkur bresta vann.

Eingenn friu á þeim leit, opt þó skipte lita krans, brúna sífu holleñ heit, hardsinnud í sorla dans.

Beigt hefur eingenn brúna sól, brinþíngs niordum slíkum ad, sem menskanu bærdu havka hól, heimsins fyrr í ueinum stad.

Í minnum sídann mun þad fest, mere eingenn einvígs hríd, hafe í Noreg sídann siest, seint edur fyrre Heims á tíd.

Listar Kónga nofnunn neit, nádu ad giefa Hetiunum, hiartaprúdum hials um reit, hildar savngs i kenníngum.

Hvad

Hvad mun tiá ad hiala um slíkt, Hildinganna ofurmegn, og Hugprídennar Hiartarikt, sem høfdu í brióste geirs vid regn.

Sem nú golners geira fiúk, genged hafde um eykt úr dag, vilde hugar sveitinn siúk, sóknar slitta ákaft slag.

Aungvu ad heldur oldenn feck, Ødlínga vidráded par, hvor sem millum Hara geck, hönum rádenn bane var.

Hvorugur lette Lavfa þrá, Landid skálf, enn Himininn, var af módu sveita ad siá, sem til regna adgróenn.

Løndúngs fyrr ei liette skúr, enn lavfar duttu úr Havka stad, enda var þá Ædum úr, allt nær blóded burt siktad.

Kváserś núna under eins, Æda dreirenn þverrar mer, Munnenn lúna mærdar teins, má ei helldur bæra á ser.

Eignez Loge óma Vín, eg þer sende litarsfar, sagnar dravgnun sóma þín, sá er ende Rímunnar.

## 2. Ríma.

Uppreist lióda látum bord, lenge man eg Sudra ord løndúngs, mer þó lidsemd bregdst, litt fyrer þad mærdinn tekst.

Ef sá nockur er nú til, Asa girnez krúsar bil, kome sá og svale ser, sigtyrs minned stendur her.

Þó ecke veitt se ærid nett, ellegar minnid qvedid rett, fleyra brúka sá opt menn, sánitara enn giædinn tvenn.

Aldrei tekz mer ølid sætt, øldum birla so fágiætt, ad ei-kiennez keimur ad, kannaz má eg opt vid þad.

Hárbards miadar hornalút, bygg eg mune sopinn út, øll samann so ecke par, epter se nema dreggiarnar.

Er þad gott fyrer Almúgann, sem ecke af betra segia kann, enn byggnum bid eg ecke inn, til ølkera i þetta sinn.

Sudre mer þad sagde kiær, so mune gódar dreggiar þær, øllum sem þeim avsa inn, efla kunne Skilníngin.

Líka af bita lifne brióst, lundinn stirnud hafne þióst, endurqveike sinne og Sál; soddan er ein dáda skál.

Víst má glede vaxa af því, vel ef drucked er á ny, og so birta furdu frek, Siólners vid þad Apotech.

Høfnum ei so belgum miød, høgum oß nú sagt i rød, medan geingur greidt i kríng, golnis minnis krúsar þíng.

Qvaasers stemdiz ædur und, uppþornud um nockra stund, sem Stióla

beggia

beggia blóded var, burtu giorvalt runnid þar.

Megnudu ecke Milldíngar, mæddir reida Tyrfínga, ecke heldur iygs á frú, uppe fengu stated nú.

Sókner navda sætte þad, sókte davdinn bádum ad, héle gipter, hnigu þá, heidre svipter Foldu á.

Dóu báder under eins, af eggia gráde sára teins; þeirra meinge mikel þó, mæde leinge í Hiarta bió.

Hugdu leggia Líkin því, Losda beggia havga í, reiste háfann virda val, velle á þar, Dravgasal.

Af flædar lióma fylltu þá, fagran sóma hugdust tiá, sínum davdu Dog-língum, dreira ravdum Mæringum.

Sierhvor giord var havga Holl, bá og breid sem stædstu Fiell; og er mælt ad enn í dag', algiort siáez verkalag.

Einvígs stadur sídann sá, Sagann lióst þar hermer frá, heiter **Glum-steinn** Havgarner, herum ljósast vitne ber.

Sídann allur Herenn heim, hiellt giorvallur burt frá þeim, hvor til Ríkia sinna senn; sogdu líka tídendenn.

Morgum þótte mikels verk, málma-
slag hvad hafde giert, því frægre vissu
eingum af, Ödlíngum fyrer nordann Haf.

Frette **Grane** Fylker dó, fyllez
lítt af Sorgum þó; **Gerdur** miste
glede svinn, gret og **Una** Bónda sinn.

Karlinn bidur fegur Flióð, slegia
öllum sorgar móð, er heima sátu í **Hals-
eyium**, hosð í mestu virdíngum.

A þeim Vetre er þeß von, **Una**
fædde frídann Son, hvor einn halda
mátte mann, munde líkiast Fodur hann.

Einka fagur ysred stór, avdnu hagur
Málmaþór, hiá Herstr alenn heima var
hermannlegur tilsyndar.

**Haraldur** ad heite er, Hilmers
látna fædde ver; af Lángfedgum sá lista
mann, listugt draga Nafned vann.

**Gerdur** líka grædde búr, **Grana**
var sá eignadur, frídur sínum Frænd-
um er, firdar nefna hann **Porer**.

Unne Heiser úngum þeim, afreks
monnum bádum tveim, hann sá þeir
vóru vel ad ser, vande þá vid Iþrótter.

Olust so upp únger tveir, áster
lögdu samann þeir; nióta seims þó nock-
ra enn, nefna verdur fleire menn.

Avstr

Austur í **Vogum** í þann tíd, inn-
er meinge Sagann fríd: einn ágiætur
Bónde býr, birt er ad sá heite **Gnír.**

A úngdóms skeide enn þá var, alls-
vel fær til Hernadar, hreyste kiempa hæg-
lyndur, Hervíkíngum samríndur.

Eitt sinn bió hann Arabiorn, út-
settann á Kiembíngs Tiorn, hvítfoldu-
dum hleipte skeid, **Haleyíum** ad retta
leid.

Hafnar mynnis Hólma vid, hnígá
let út akkerid, geck á land og **Grana**
fann, gódrar qvediu virte hann.

Tóku med ser tal um stund, tamer
nóg vid járna fund, enn um síder upp-
kom þad, **Unu** hann ser til handa bad.

**Grane** karlenn gegnde því, gede
er stór mín Dótter í, siálfrád mun því
sinn um hag, Sætann ráda nótt og dag.

Veit eg þiker Pollu líns, þú ei
virde Bónda síns, ádur sem ad átte
ser, enn nú hnígenn davdur er.

Þad mun sannaz Þorns qvad tír:
þó mer samt í gede býr, ad navmann
mune Navdrusands, nióta lengur mín
enn hanns.

 Blossa=

Blossamírar voru vid, vakte Gnir samt Bónordid, sólenn trega seims í stad, seinlega tók under þad.

Mætte giæfa, mælte Fru: misiøfn heita nockud sú, þeß frægasta Fylkis Kon, festa ef vilde Bóndason.

Eg þvi reidaz ecke kann, aptur Fliódt giegner hann, kís eg samt mer Konu þig, Kóngs þó nafnid príde ei mig.

Þó lægre stigum eg sie af, eflavst mun þad rætaz straf, þá mun eg í þravt-um hætt, þína stirkia og Niflúngs Ætt.

Grana þúnga selianu ser, satt Niflúnga reyner tier, þóckttz líka þorna gná, þegna slíka ei marga fá.

Þar af rædur ristill þad, ravnaslædur þverra i stad, ef hún neitar ecke beim, og sig heiter Marine þeim.

Med Fodurs vilia festez hal, Fálu-ilia briótur skal, hallda medur Hofdíngs sid, heima í Vogum Bullavpid.

Herser leiste hennar mund, hrañar neista á samre stund, óteliande avra val; epter verda Sveirnenn skal.

Eiþku skilia Mágar med, miog glader hiá karfa bed; þóckttz Gnir nú góda for, giort hafa með sémdar kior. Ley-

Leyste Fley enn Bod uppvakt, vindur leinge áfram bratt, og báru svansins beinde flug, bilade Svelnir ecke flug.

Ufinn lukte alldrei hvopt, urners vængia bur um lopt, fyrr enn **Voga** hafnar hlie, Hestur soga kannade.

Fagnade bónda folked þar, flest alt þad sem heima var, her med elvar glóda gná, greida sœmd og lotning tiá.

Hielt med sóma Hofed **Gnir**, heidur og sóme ad þeim snér, olvader bidia aller senn, **Odin** stydia Brúdhiónenn!

Settuz bæde so um kirt, í sœmdar æde mikelsvirdt; enn þar rœmdu marger meñ, miog **Gnirs** Sœmd og Heidureñ.

Ad **Haleyium** Hleidólfs skeid, hverfur min þar fyrre beid, nýu ad vana únger her, upp hiá **Grana** Sveinarner.

Allrahanda Iþrótter, álfarbranda lomdu ser, hinn þó umfram **Haralldur**, hravstann **Þorir** Stálbaldur.

Níu lidu ár so af, eckert mótkast Luckan gaf, ærid **Grani** eldaz vann, ellinn tók ad sigra hann.

Skialdan mótkast er so eitt, ecke fylge annad neitt; herma skal þvi hvad til ber, heraf Sagann lióſast tier.

Nordur á **Mære** niótur mæls, nockur uppólz giptu friáls, **Einar** nefndur er nú sá, afe **Snialls** sem daudur lá.

Ecke hafde Rikes rád, Ræsers bur, þvi Fólk og Láð, untu ei breiter unda víns, utann hann hefnde Fødur síns.

Sogdu olle hele hanns, Herser **Grana** víst til sanns, munde i slægdum margfalldur, mentaz þar og **Har**aldur.

**Einar** sá sem af eg les, Jlge nockra siglutres, bió med Herlid hravst og stort, ad **Harleyium** so kom óvart.

Eld ad Húsum slægur sló, slepte meinged svefne og ró, Báled vavda varer vid, vist i dauda bæarlid.

Kall til dyra gengur greitt, gumna spyr hvor ser so heitt, unne nú enn efle stir, ecke slíkt eg reynde fyr.

**Einar** gegnde eg er sá, unna þier sem Loaans má, vorra frænda fórid heitt, sær þig nú til bana leidt.

Ansar

Ansar sá sem inne var, á þyk mig nú rett furdar, saklavsa her myrder menn, mægda þer og skylda senn.

Undur kalla eg og þad, ef hann Sniallur hel sem trad, frægdar giarne Gramurinn, gietur barned nídínginn.

Til Sveinanna sídann vick, sagde þeim med orku þrek, fordid yckar siore þid, forst um sín þyk ríúfaz grid.

Leited Frændum yckar ad, ei er vært í þessum stad; savndyr bæar let út gá, Logans blæa hulde þá.

Grímnis Skarte skríddez grer, þá skildu vid hann Sveinarner, og eitt binrañ vigra vand, valkur tekur ser í hond.

Hlided bravt á. Húsed þar, hereñ sem ad fyrer var, útbúinn í Ása fríd, orku rúed britiar lid.

Til beggia hlida vega vann, valinn radar gamle mann, ad oxlum bádar blódugar, brkkur havka ravd farfar.

Gegnum Herenn allann ód; Einars hier þad furdar þiód, hvad fiór hnígenn Hærukall, heggur í víge einsamall.

Giordu honum gilda hríd, grimt ad vonum fólk um síd, enn hann var-

diz orku af, og æfi skardid morgum gaf.

Mædinne rúm megned lier, má þeß gialda skióma grer, einn fyrer morgum allt til dags, ullum vardiz spióta lags.

Um sider hneig hann velle vid, vilde lid ei bidia um grid, hafde líka báled breidt, bæenn húsum ollum sneidt.

Innebrender int er mer, átta meñ og þriátyger, Herser fylgdu helveg á; hiner sigldu burtu þá.

Heim á Agder Einar fer, óskar ad bragde Rikis ser, frettum leiner ecke af; orsa reiner þeige svaf.

Illa rómaz adferd slík; olldinn þióna vill ei rík, Frillubornum Fylkers nid, firtez hornúngs jódid vid.

Hafdiz so í Hernadi, honum miked fenade; afl og hreiste Einar bar, á sem treistu Heidíngar.

Hane þundar hvarflar ad, Haraldur undann komz af stad, og so Þorer únger tveir, epter fóru reiknum þeir.

Gierdu eige vid sig vart, vopna freya sined diarft, logduz mirkvar merke á, manna vegum lángt í frá.

O=

Okunnug var ítum leid, avngvum
þar þó háska qveid; hugar dyrskann
heimskuleg, hugsade ei um Manna veg.

**Þorer** rædde þúng er pín, því
sier frænde higgiann mín, vid ormagn-
az munum brátt, midla rádum giordu
þrátt.

Attu i **Sogne** Frænda fans,
fridann hlíra vlú til sanns, skióls ad
leita skamt er þeß; Skioldúngs neitar
mogur hreß.

Má ei Bróder minn nú sá, mier
í neinu lidsemd tiá, jafnkomed med
ockur er, avngva stód hann syner mer.

Vilde eg hitta Módur mín, mædn
stitta Bróder þín, og venda avstur
**Vogum** ad, verdur travstaz rádid þad.

Avdnann ráda mild því má, mer
hvort bráda reisu þá, endiz fylla og
fylgia þer, stiótt eg villiz **Þorir** tier:

Okunnug er leidenn lavng, líf-
hætt miog og ofur þravng, þó afráda
eige lest, ockur þad sem gegner best.

Uppá Skóg og yferum **Kiol**,
átar lóga ferda dvol, nesteslavser fiýta
for, sátækleg med reisukior.

Ervid ferd var ítum sett, ei bein-
leides

leides heldu rett, mædde Húngur, frost og fiúk, ferda reisann var ómiúk.

**Haraldur** i hende þar, harda Taparexe bar, enn lited Spiótkorn **Þorer** þó, þá í sinne hende dró.

A einum dege axar hlióð, úngra nemur heyrnar slod, aula því næst ítar þar, illann líta tilsyndar.

Var ad skíta Skid i Eld, Skálka make sjó um queld, frægdartregur folsku hvinn, ferlegur og stórskorinn.

Skamt hann á þar Skála frá, skandade þángad vegenn á, hallar brette brúna Gler, og báda reit i þessu ser.

Skrafade þá Skelmers grei, skulu þesser Piltar ei, vorum birta bygdum frá, og báda hyggz ad myrda þá.

Aulenn trilldur ad þeim ód, ilsku fylldur geds um lód, oxe breida og i stad, ódt nam reida **Harald** ud.

Bódar hugur sveins med sañ, fiff mune duga ragmennskann; under hoggid aulans hlióp, og oxina reidde framan á glóp.

**Haralds** yfer herdar þá, hlavpa verdur Eggenn blá, hoggsins miste

Druss-

Drussinn digúr, og dettur áfram þussaligur.

Í því bile ódt til sanns, aptur á mille Fóta hanns, hlióp enn exe hleipte á snid, hanns framan í breidast qvid.

Epter vard í Sáre sú; Sóte liggur fallenn nú, upp vill standa aptur hañ, ad í þessu **Porir** rann.

Orm lit driúga unda sinn, avlans smiúga i brióstid inn, eñ **Haraldur** med Hradstleiks grein, hneppte á Kiaptinn mikenn Stein.

Lúraz grei vid leikenn þañ, liddan feig sá Asebann, i Nistheim sendur fantur fór, falinn á hendur **Ásaþor.**

Epter unnid þrekvirk þad, þreitter runnu Skála ad, nógar vister nálgudus; næstu grímu þar hvildus.

Logdu á glædur falskan Fant, fargaz mæda, værdar annt, bádum var enn Viku þó, voru þar í Hvíld og Ró.

Allt þeir voldu og er þar nóg, sturs giold, sem frænda róg, fundu þider Varnings val, Víkings sídann brendu sal.

Fed

Fed i leinum fólu senn; fóru ad reina leider enn, ógreid reisann er þeim hord, unns þeir líta breidan Fiord.

Bygder fridar bæum med, bragnar' sídann feingu sed, Fiordsins vænu hlídar hier, huldu grænu skógarner.

Menn sem fundu mále ad, mest þeir grunda vildu þad, hvorsu hiete Heraded, hiner greida ansvared.

Utfar boga fregna frá, Fylke Vosga nefna má; Haraldur spyrja hernæst vann, hvor þar være Stiórnarmañ?

Gnir ad h ite gildur er, gira beiter stolltum her; hinn fram sagde heidursmann, hitta ad bragde vil eg hann.

Roktu leid til Húsa heim, hvorge nockurn líta heim, inni stofu obodner, uppí Setenn lyptu ser.

Ad lidnum tíma lióra lións, lavkz upp ginid stióra fróns, inngeik kurteis ysred bradur, ecke blídur sídbrúnadur.

Komner eru hvorier her, Húsa sem ei bidia ser? Folska slík er sávíslig, fanta líkar ugger mig.

Geande honum Gramson mót, gisleg eru þesse hót, adra þarf eg ásiá nú, æde heima full ertu. Har-

Haraldur er heitid mitt, Hialdursson; enn nafnid þitt, intu ockur ódt í stad, eflavst heyra vilium þad?

Bóndin sagde so sem var, sege þid nockrar fretturnar? hiner aptur hiala um sinn, hel hefur kannad Mágur þinn.

Atburd glósa íllum frá, allt af liósum ferdum tiá; rodnar Vertinn riett sem blód, reidinn herte sinnes mód.

Sídann mælte saddur dád: sie eg dælt eiværna rád, enn hier þigged Vist og Vín, sem vill hinn diggva Móder þín.

Fagnar Móder Mildíngs nid, minnis slóder kættuz vid, skorinn klæde skrúde af, skír med giæde reckum gaf.

J sogdum dvolduz sama stad, so uppolduz þeir med þad, ollum meire íþrótter, álfar geira tomdu ser.

Einginn nióśn af firdum fer, flester meintu Sveinarner, háls i stóru bíssnum fyr, banans hefdu kannad dyr.

Móder vidur dýr í dád, Doglíngs nidur feck so tiád; hvar munu vera Hialdurs hier, hofrúngs kera byrnerner?

Selde Grane sæfar lión, svinnur
fyrer jotna ton, eyken mælte unnar
báls: aptur svarar lyndis friáls.

Oframsyn var afe minn, er burt
feck hann sæhrossinn, mætte eg ríða
Merum heims, munde eg stríða á
nióta seims.

Lofninn seger lýse gulls, líz mer
eige enn til fulls, hroskadur so þú um
mar, hramma láter Skeidarnar.

Hann qvad Vísu, og hóf so tal,
hedan af eg aldrei skal, epter verda af
Vikings her, sem vill med gerdum skemta
ser.

Umtal þetta avdarlin, aptur seger
bónda sín; hann qvad ecke hægt er Frú,
herskipinn ad búa nú.

Fá skal hann þó sinn hiá mer,
flædar dýr med travstann her, vel út-
búenn vers í dans; drósin þackar ull-
ebrands.

Arfa sínum inner frá, útgiord
ferdar Svanninn þá, enn hann qvedur
þav med þad, Þorir fer med honum
af stad.

Ad síidarrákum logdu á leid, læg-
is

is fákum vildu á skeid, hleipa þvi ad hugurinn var, harla fús til víghrídar.

Leyster gana gelter geims, grædis hanar, menid heims, kliúfa lenge qvikleger, kåre streingia Vod beyger.

Drafnar jóda fadmlog fá, flavstur-inn ódu loginn blá, um Eystra Salt og Elfar-Sker, ægis valltra Havkarner.

Ur nær vængium Vindinn dró, Vikingum gafz eingen ró, **Haraldur** so heriar þá, sem **Hialdur** komenn dauda frá.

Munde allra munnurinn, mæla hann være þar kominn, úr Helin med Hermans síd, og hefde miklu avked vid.

J Sóknum sterkum sigre hlód, af sæmda verkum prís hiá þiód, vidris sala værdum ann; vel má tala þad um hañ.

Lófa mundar lióman med, liósenn stundum fånga red, hvar hann stie á stiriar dans, stord og Fe vard arfur hanns.

Arinn þriú i odda þrá, eldinn sú nam standa þá, skipa bæde og virda val, Varga fæder hlavt ótal

Under Hólma aptan síd, eittsinn

hvilde nockra tid, Haraldur drafnar Hesta þá, hlaupe mædda komna frá.

Hvkid vill líka Túngann treg, tögud róms um stírdann veg, mædd og lúenn mál er ad, midle værd i annann stad.

Sendest Loga þesse því, þundar voga giordinn ný, leinge smacka old-inn enn, eingenn þacke leirburdenn.

## 3. Rima.

Blinds ad leifum leita hlytur lióda Smidur, samt er hann þó enn sem ádur, ørbyrgíngur heimsku þiádur.

Tekz mer ecke Tyrauds hitta tópta setur, nie Nijrœds, savngum ná til bóta, næmre pløntun lærdóms róta.

Því mun eg ecke Blindvids bióda bodnar fylle, þornada veit eg þá nú alla; þarum tiáer ecke ad spialla.

I sal Skiemtunar Skorta má ei Skálar kiætis, innbera því eg vil láta, Odins bediu minned káta.

Erfed Freyiu athugalaust aller svelge, hevløg er sú bodnar bylgia, bate og glede þenne fylgia.

Eg veit dyrust Asinna hann yfer blessar,

blessar, og brúkar marga breitta kossa, bølverks magnar sónar Jossa.

J þvi helga lægis liósa lundar væte, og brenne voga brikur teitar, brúdar erfe hyggiu reita,

Enn þú Sudre medur mána mikklum krapte, liflega ádur láttu skapta, lióta Smidsins rædu tapta;

Svardar stordar Háfrar Høllu hvolva leyne, og hyggiu ranna bygdinn búna, byrie støku fagra núna.

Til virdíngar Grimmirs Garda Godum dyrum, erfe þessu út ver tærum, ydar á mille Viner kæru.

Grátfagra oß godid aptur gódu lavnar, vinum sin fyrer virdíng sína, vegsemder og heidran sína.

Flækiaz nú vid Jormálana fer mer ege, þvi skal kugginn kialars draga, ad Klodolfs mide, þad vill Sagann.

**Þar vid hætte mærdar mædur** mála qvarde, sem **Haraldur** úr hreti sverda, ad Holma einum neitte ferda.

Alæge vænu lilium brannar liente flodu, blodinn prýdde blóminn flóda, brikur ægirs sette riódar.

Þá Mundilfera Mána Sýster Mey-

 an

an skiæra, lyste borvum lofnar tára, litu af hafe drafnar kláru.

12. samann þar renna reita rost-ungs granda, hofdum snern Hræsvelg undan, Hafnar til þeir leidev skunda.

A þeim stædsta Flóda Filnum firdar teiter, mann einn fagrann máttu líta, mikenn vexte bender ríta.

J hladsettre skarlats skickiu skorugs legur, skiærum gyrtur loudúngs loga, lætur teingsla byrne voga.

Siórenn gleipte atker oll, enn erns er báru; vængia flugiun styttu hin stóru, sloduger á læginu vóru.

**Haraldur** spurde hvor þar siórnar hefde rádenn, og hvort þeir kiose kíf edur fridinn, komner ad æfa járna klidinn?

Hin nýkomna hetian segez heita **Grímur**, enn þora munum vid þig um tíma, þeige blavder voga ad stímia.

Odlíngs nidur ansar nióte orma strinda, hvadann frá þer logdud landi, leysiu mer og ættarstande?

**Grímur** mællte: sió um saltann sigling reindum, **Sogne** frá ad **Svía-lande**, sóktum Stríd med hvossum brande.

Minn het Fader hoskust Hetia **Hialdur Travste**, vikinga frá lífe leyste, leinge mun hanns uppe hreyste.

**Haraldur** inner áttu brædur ecke fleire, sem med Þer Hildar hreted stóra, hressa kunna, og vidris óra?

Einn eg hlíra átte mer Þó ei sammædra, ansar Hinn: enn Eldsins glóder, úngann deydu Þann minn bróder.

Leitar eg ad limsku verka lester spióta, um Ægenn blá sem **Einar** heiter, ysfred sterkum járna beiter;

Mína brædur myrdte sá enn mer Þó skyldur; nú vil eg hefna nadds á baldre; Nídíngurinn Þrísiz aldre!

Ertu gamall ansar hreiter órma mýra? hinn qvadz ecke hirda fleyra, úr hanns Spurníngum leysa meira:

Þú mátt koma ef Þorer strax í Þrætu vigra, heldurenn mig i hótum jaga, og heimsku spurunum alla daga.

**Haraldur** mælte: hirder Þú ei heite mínu, epter spyria ert ad vana, ádurenn veiter mer nú bana?

Hinn qvad aptur hirde eg litt i hótum ædre, hvort Þú heiter Mere eda

 Madur,

Madur, Mús eda Kiempa fullhugadur.

Hlæande mælte **Haraldur** enn og hóf upp rædu: til orda muntu yfrid greidur, ef ertu í hóte nockru reidur.

Þvi skal lúta ad lægre seß og leisa fyrre, óspurdur um ætt og burde, yfer þvi þó margann furde.

**Haralds** gaf mer heite **Una** hlockinn skrúda; eg og rettur er þinn bróder, sem einatt rióda hnikars glóder.

Vorra frænda líz mer linne liótt sidferde, ort so hvor þar annann myrder, eru þeir leikar næsta stírder.

Seige seigenn **Grímur** vard og gumnar fleyre, af funde tídum fremdar Hlýra, sem flesta Kappa giordu rýra.

Hvorier odrum hermdu þá med hoskre snille, soguna sinnar æfe alla, sem yfer þá hafde náo ad falla.

I samflota Sigluhundum sídann kefndu, aostur greidt ad **Gardalande**, grádinu undan óstødvande.

Þrennum átta þiliu fákum, þorskavelle, rendu á skeide yferum alla, uns ad blæur mastra falla.

Landgáng veittu langbards sólar lunds

lundar kæner, **Haraldur** giarn i gu's enn fleina, **Grímur** og **Þorir** sig mun reina.

Med oddum deyddu allt þeir eyddu er mót stendur, loddara sneiddu lífe og anda, liddur meiddu briotar randa.

Undann flúde elldinn smeika ört til fundar, **Hergeirs** Gilsa sína sendu, sier til hiálpar lids bidiendur.

Hann vid brá med Her vel búenn hnikars prýde, ad fipla Hiedins forna brúde, og fadmlog veite nára þrúde.

Herunum fylkia Hofdíngarner hvor mót odrum, í hogna dóttur dannsinn rieda, dorin savng enn álmar hlióda.

Hart framknúenn málma messa marg-an skeiner, æfetión þeim ollum sýner, er þar branda Rotum tíner.

Hedins bedin vike vake varde leinge, eled sverte iggiar skóla, alla skerte birtu Sólar.

Í hnikars fiúke hoglinn sverda hlíra þriggia, gnúdu fast á Siklíngs seggium, sveipudum í unda dreggium.

Megne brædra mátte undan messan hrotta, láta, og rann því fólk á flotta, Fætur kiepptuz þá vidótta.

 Her-

**Hergeir** siálfur heim til borgar helt úr stríde, til firda sende um frid ad bidia, so felle nidur Sverda idia.

**Haraldur** mælte ef Hilmer **Garda Herborg** únga, sína dóttur sender hîngad, sára nadur skal ei þvínga.

Og hana gefur út med munde orma drífta, stríde mun þá Sikling sviptur, enn siálfum mer skal kistill giptur.

Aptur snern Ödlíngs menn og inn hid sanna, Siklínge frá svorunum hiña; sina rede hann dóttur finnà.

Unga liliu Drakons dúfa Doglíng spurde, hvornenn hún vilde haga ordum, heidur og grid so stæde i skordum?

Veiga solenn vitur gegnde Víkirs tale: af hverre Ætt mun styrer stála, sem stefner oß til giptumála?

Gramur aptur gegnde dýr og gæt-inn leyste; af **Noregs** Jofra Ættum ædstu, orku romum Hetium stærstu.

Hygg eg einnenn hanns jafnaldre hvel um lande, betur reide biart med hondum, báleigs liós ad stiriar rondum.

Hlockinn únga ægis blóssa ínte á móte; í hvorre ráð skal navdsyn nýta, enn neinar aldrei trygder slíta. Fyrst

Fyrst ættgöfugur álmaþór með æ-
ru hróse, leitar vor þann líder prísa,
let eg honum burt ad vísa.

J Praatum stædstu þú munt líka
og þíner líder, því er betra þad afráð-
er, þar í móte taker náder.

Þetta líkar Siklíng senn og svar-
ar henne, vitur muntu sidugur Svañe,
sannlega reynaz hvorium manne.

Þetta lætur Stóle segia Sverdas-
þolltum, bióðande so heim til Hallar,
Haralde med kempur snjallar.

Þiggur gloggur Þeingels bod, og
þarnæst býdur, ad lýst sie þar um land-
ed fride, Lofdúng fyrer og þeirra lide.

J Siklíngs hollu sómaþakeñ seima
vidur, Hilmir sat vid hægri sídu hæ-
verskur og einka frídur.

Herborg stie í Hilmirs sal og
Harald lítur, alvarlega ástinn heita,
inntók brúdar sinnes reita;

Ad Níflúngs arfa bláum beitte
brúna sólum, med yndis þel og ástar-
tale, er uppliómadi hiarta sale.

Hanns á móte hæruguslur henne
ad blakar; fastmælum þar feste breckur,
trænings vallar stolltur reckur.

 Hóf

Hóf þá rædu **Haraldur** vid Hilmer frodann, ydur vel eg þacker þídar, þó skal brullaups umtal bída.

Adurenn frída fiardar geisla fastna eg þrúde, Ettar skal eg ódul láda, eignaz og þeim líka ráda.

Drífu mundar siálfrád sunna sie mer fylgia, edur hiá Hilmir heima dvelia, hvort sem vill má drosinn velia.

Hiá Hilmer dýrum hún qvadz sitia heima munde, medan hann um kialars qveude, klárum beiter sára vende.

Burtu sig nú Barmar aller búa skírer, raster útá brattar báru, búner til í vedre kláru.

**Haraldur** qvadde Hilmer vel og hkra brúde, kiærleiks mótinn qvedtum redu, kossa hótinn áster ledu.

Hefríngs efra blakte blær á bylgiu Fýlum, bitrann Lopsinns kendu kala, kólgan hægt ad brióstum svalar.

Oldu systur gisnum glotru grædgis tonnum, brimhvolvar ad biornum hrannar, bravkmiklar til Fadmlaganna.

Blæur siglu bloktu sagt í byrnum góda, eins ad siá og leiptran líde, logne í um svana hlíder. Aldrei

Aldrei lægdu reckar resla ránar hinda, fyrrenn Horda Hafner fundu, hvar þær mæddar festum bundu.

Frettu þá á Mære munde meidser Grana, nýkomenn úr hrotta hlióme, hvítum þaktur jotna róme.

Þorer vilde þegnar tefie þeige vidur, Einar hitta ítum rædur, alþúnum med víga glædur.

Þegnar leystu þrídrúngenn af þiliu fákum, hvaß vidre úr hofnum tóku, hvíta fallda moßtrinn skóku.

Mikel hæfer málma þórar mundu stefna, Mære ad á maßtuns hrofnum; mun þar Einar fyrer Hofnum.

Þegar náde þeirra máse þollur verlu, hravstur náde hina spyria, hvorier vildu geira smyria?

Mildíngs kundur mælte sniall í máta reidur, Hialdurs nidia hier mátt skoda, hiorva idiu sem þier boda.

Fyrre ádur funans mer og Frændum mínum, unter þú, enn eg vil búna, óma glód þier sýna núna.

Þá mátt gánga þora nær qvad þundur álma, eg hrædez aldrei þína

þræla

þræla, þeir mig ecke megna ad fæla.

Hier næst luste Herinn beggia Hersópinu, ránar titra taka lióninn, tirfíngs vid þann bitra soninn.

Orvar, Spiotinn, gaflók, gerder, gríder randa, letu driúpa log úr undu, leysiu hiúpa vidris sundur.

So var drífa helblinds hordum hvoß í stórme, ad siá ei máttu sóler hvarma, súnnu hlírnis innu varma.

Hvorutvegge hreystenn prófar hugar prýde, allstadar hníga útaf radder, um þilferinn búkar dauder.

Eins nam belia æda seirann útaf deckium, sem elfa flóds med idu þietta, ofan steipez biarg eda kletta.

Af Skofnúngs sporum so tilsettum sal á æda, í okla tók á oldu sákum, eñ allur siórinn blóds med rákum.

**Einar** sier ad ullar hrínga otuler laungum, sína flockum drepa dreinge, so dugde á mót ad vega eingenn.

Hamadiz miog vid hrakfor þegna horku fyldur, biorninn hleypur uppá olldu, eyn menn **Þorirs** vordu Skioldum.

Aptur

Aptur og framm ad ólmur feldi álma Póra, hegginn hanns þad heiptar stóru, helldum leinge í minne vóru.

Aptur ad lypting álfur skiædur unda linna, hravstur og idinn odds í önnum, eyddu qviku þar af mönnum.

Porer illa þoler slíkar þaysna glettur, geirnum móte garpnum lette, og geise hogg i Skioldinn sette.

Odrumegen urnis sleipa ilia stadur, alla riste upp og nidur; Einar nádi reidaz vidur.

Til Poris aptur þríste geistums þundar loga, enn hann þiliur í ried smiúga; Einar miste heggsins driúga.

Í því bile Einars Hiálminn óma stiarna, klavf í tvent sé kinnar hlena, kiende undur, soddan fyrnar.

Horku tryldur hamadez Einar hiors i slætte, brintröll Porir sitt á sette, sier hann undann hogge liette.

Á þiliu byrne Porir tæpt í þessum voda, stód, enn hátt upp stockva nádi steipez því ad karfa láde.

Grímur hiellt ad grana byrdar geimer valinn, Porir munde heliu hyls inn, hesta tekur branda kulinn.

A skip **Þoris** skoppar skiótt so
kipte avngvu, og hoggid greidir hrister
spánga, hard myntum med ættartánga.

**Einar** reider under hoggid Odins
mána, Sverdid hrøckur sundur í einu,
sier nú **Grímur** búna skeinu.

Drugguir sá hvar atker lá og upp
þad hefur, fluginn **Einars** havs nam
hæfa, hanns mun þverra lán og giæfa.

J þvi bile **Þorir** stód á þiliu
hundi, og hravistan **Einar** hió i sundur,
hrotta vid þad deyde fundur.

Sigre hrósa, herfáng hlutu, heid-
ur' líka, **Einars** skip og Skatna tóku,
skeida flotann hiermed jóku.

Hratt til sinna hofrungs reita Hesta
þræda, ádur sem ad epter stódu, alvoter
á læginu gódu;

Sídan biuggu sínar drótter sverds
til starfa, á landid upp þeir lavfa børvar,
listuger í gráded sorvar.

Sem ad landsmenn varer vissu um
Víkíngana, hiermed þesser hildar viner,
**Hialdurs Travista** væru syner.

Þeir medtoku þá med prýde þiónk-
an veittu, **Harald** brátt til Hilmirs
settu

settu, honum stiórnin bar med rettu.

Aller lutu Odlíng úngum álma
Þórar, Agder, Hordar, Mon og
Mære, Mildíng krindum hlídne-færer.

Roga Herads Ræser Hroald
rak úr lande; Sogna Fylke sitt vald
under, sídan lagde geirs med funde.

Sterkur hætte Stiller fyrr ei Stjórn-
ad avka, enn Vikars fræga vañ oll
ríke, vell avdugur af dreka síke.

Frægdenn, lof med láne og æru
lavt ad honum, eingenn frægre í Þann
tíma, Odlíng tærdi drafnar bríma.

Sogna Fylke Gríme gaf, Þá
giæter láda, Hersir valinn Hirder dáda,
holldum leinge átte ad ráda.

J værdir settez vitur metinn vop-
na hlunur, ítum veitte idu funa; er
hanns nidur Biarne Buna.

Hiá Giæter sveita giste hravstur
geimer sóma, kundur Grana trigda
tamur, tok Þá Jarls nafn orkuramur.

Um æfe lánga aldrei skildu ástar
funde, dyggver fram̃ ad davda stundu,
dyraun truskaps soma bundu.

Avdna lied og vísis vald Þó vidt
uttaka

uttake, hanns eg frá samt hugur víke, til Herborgar í Gardaríke.

Tólf liet byrne hofrúngs hvera Hilmer vinda, ad siómále alla steinda, á æger blá med kappa reinda.

Lyste frægur Lofdúng þvi þeir lúdra skyldu, Garda-avstur Grams í velde, grædis lyster fogrum elde.

Ad Kóngs vilia oldu bessár undan lande, sínum ferdum vakrer vendu, vidar flater Kiembíng rendu.

Siole má nú sigla á haf eñ samferd þrýtur, knorinn minn er Kialars brotinn, kemst eg hvorge ráda þrotinn.

Hætti þvættíngs hialad tal í hródrar smidiu, þeige hagur eydez ódur, eige fagur leidez hródur.

# 4. Rima.

Qvæda vakur qvarde qvikar kreptur duge, burda lakur havkur hnikars hreifer fluge.

Efnin kanta idne í qvæde og atfør sletta, þar vid vantar þreked bæde og þrottinn retta.

Hvad skal seigia hugur er klóckur hnikar bidur, á eg ad þeiga? er þá nockur ódarsmidur? Margur

Margur veit eg miødnum iggiar midla kunne, þá eru sveiter þad sem hyggia þreks úr brunne.

Ei eg sæme øls ganglera art so hlióma, þar med ræme þetta ad vera þussa dóma.

Missafnt hvetia marger fleina mærdar gróda, þeir sem geta þad med hreina þecking góda.

Um viſku ſetur vopna runna vil eg játa, mer þeir betur minda kunna Mønduls báta.

Fáer muna ef rett ſkal ræda róms af grøndum, ad hafe bunad Hvítings æda hver af Strøndum.

Þad er ſannad þar mun dulenn þundar ſtaka, eins og annad er hún hulenn under klaka.

Sudra hlír ſkal ſiónar hvarmur ſamt hier blika, einnenn ſpányt Fiølnis farmur ferdugt ſtrika.

Þvi er geinged þó Manſavngva þilie meingid, þacka leingur þorna ſlavngva þad má einginn.

Mærdir hræra mimis kera magtin dyra, máne ſkiær og Mundilfera Meyann hyra.

Akur lióda lifnar vid þad lifid hæda, ſpakur bióda ſtrax i ſtad, mun ſtøku qvæda.

